Lijf Mañlegt endast skioott.

So hleypur Æskañ unga, Ovissa Daudans-Leid, Sem Alldur og Elleñ þwnga, Allt reñur sama Skeid, Jñsigle aungver feingu, Uppa Lijfs Stunda Bid, eñ þañ Kost undergeingu, Aller ad skiliast vid.

Daudiñ maa so med Sañi, Samlijkiast þyki mier, slijngum þeim Slaattumañi, er slær allt hvad fyrir er, Grøsiñ og Jurtir grænar, gloandi Bloomstrid frijdt, Reyr, Stør, sem Roosir vænar, Reiknar hañ jafn smaanijtt.

Lijfid Mañs hradt fram hleypur, hefur þad aungva Bid, i Daudans grim̄ar Greypur, Grøsiñ tekur þar vid, allrar Veralldar Vegur, vijkur ad sama Punct, Fetar þad Fws sem Tregur, hvørt fellur Liett eda Þwngt.

Hvørki fyrir Hefd nie Valldi, Hopar Daudiñ Eitt Strik, Fæst sijst med føgru Gialldi, Frestur um̄ Augnablik, allt hañ ad Einu gylldir, þoott Illa lijki edur vel, Boon ei nie Brædi milldir, hañs beyska Heyptar-Þel.

Meñ vada i Villu og Svijma, veit eingiñ neitt um̄ þad, Hvørniñ, a hvørium Tijma, Eda hvar hañ kiemur ad: Eirn Vegur øllum greider, Jñgang i Heimsins Rañ, Margbreittar lijst mier Leider, Ligge þo wt þadañ.

Afl Daudans eins nam kreinkia, Alla i Verølld hier, Skal eg þa þurfa ad þeynkia, Hañ þyrme Einum mier? Adams er Edle ruñid, J mitt Nattwrlegt Holld, Eg hef og þar til uñid, aptur ad verda ad Molld.

Hvørki med Hefd nie Raani, hier þetta Lijf eg fañ, Saaliñ er so sem ad Laani, Samteingd vid Lijkamañ. J HErrañs Høndum siendur, ad heimta sitt ad mier, Daudiñ maa seigiast sendur, ad sækia hvad Skaparans er.

Nu vel i HErrañs Nafni, Fyrst Naudsyn ber til slijk, Jeg er ei þeirra Jafni, sem Jørdiñ geymir nu Lijk: Hvønær sem Kallid kiemur, kaupir sig eingiñ frij, þar læt eg Noott sem nemur, neitt skal ei kvijda þvi.

Jeg veit miñ Lausnariñ lifir, Lausnariñ Himnum a, Hañ rædur øllu yfir, eirn heitir JEsus sa, Sigrareñ Daudañs Sañi, sialfur a Krossi doo, og mier so aumum Mañi, Eilijft Lijf vijst tilbioo.

Med sijnum Dauda hañ deiddi, Daudañ, og Sigur vañ, Makt hañs og Afli eyddi, eckert mig skada kañ, Þo leggist Lijk i Jørdu, lifir mijn Saala frij, hun mætir alldrei hørdu, Himneskri Sælu i.

JEsus er mier i Miñi, mig a hañs Valld eg gief, hvørt eg er Uti eda Jñi, eins þa eg Vaki og Sef, hañ er mijn Hialp og Hreysti, hañ er mitt rietta Lijf, hønum af Hiarta eg treysti, hañ mijkir Daudañs Kijf.

Jeg lifi i JEsu Nafni, i JEsu Nafni eg dey, þo Heilsa og Lijf mier hafni, hræbist eg Daudañ ei. Daudi eg Ottast eigi, Afl þitt nie Valldid gylldt, J

Christi Krafti eg seigi, Kom þu Sæll þegar þu villt, AMEN.

## Stutt Umþeinking þessa fallvallta Lijfs, og Jhugan Eptirkomandi Sælu,

I Psalm-Vijsu samanntekinn, af Mag. Steini Jonssyni, Biskupi Hoola Stiptis.
Ton, Pa liñir þessi Lijkams Vist.

VAkna mijn Saal, og vird fyrir þier, hvad valltur er Lijfsins Bloomi, Frægd og Dijrd Mañsins skaamijt er, þo fagurt um̃ Stund hier lioomi, Metord, Vijsdoomur, Makt og Fie, Maalsnilli good og Frijdleiki, lijdur burt, lijkast Hlioomi.

Hvar af villtu þier hroosa þa? Hvar af kañtu þig stæra, Pu Molld og Aska? Miñst þar aa, Mekt øll, og Stundleg Æra, leitar i burt þa Lijfid þver, Pu leggur þad ei i Grøf med þier, þoott villdir þaangad færa.

Hvad kañ þig stoda Hefd og Valld, Heims Tign og allur Soomi, þa fyrir þijn Brot skallt greyda Gialld, Gudi aa Effsta Doomi? Veralldleg Makt er protiñ þa, þessa mijn Saal i Tijma gaa, þeink um̃ ad þar ad komi.

Eptir Daudañ er Doomsins Tijd, Daudiñ er Laun Syndaña, dapurlegt hefur Daudans Strijd, Dreigist til allra Maña, Eñ so þu Dauda frelsist fraa, flij til DRottiñs og ad þier gaa, ydrastu Illverkaña.

Graat þijna Synd og giæt ad þvi, Gud þa Mañiñ skapadi, Dijrdar-Sess haañ setti i, siñi Mynd begaafadi, allskonar Vegsemd aa sier bar, til eilijfs Lijfs hañ giørdur var, þo ad hañ þvi tapadi.

Sorgandi maattu Saal mijn nu, Sia eptir Missir slijkum, Riettlætis Skrwda rænt ertu, Raanglætis vafiñ Flijkum, Helgun og Lijf þier hvarf i fraa, Hvar kañtu Boot aa þessu faa? Hia Gudi Giædsku-rijkum.

DRottiñ vill ecki Dauda Mañs, Daudañ Satan iñleiddi, Ofund, Svikrædi og Illska hañs, allt Mañkyn Lijfi sneiddi, Daudiñ til allra diarfur fer, Deya um̃ sijdir hliootum vier, Giølld þau oss Syndiñ greiddi.

Daudiñ þo orkar ecki meir, Athugum Saal mijn þetta, Eñ ad giøra þitt Lijk ad Leyr, Og Lijfinu burt ad fletta, Ondiñi Daudiñ ecki nær, Ondiñ hiaa Drottni Hvijldir fær, Hønd vill hañ heñi rietta.

I þeirri DRottiñs Astar-Hønd, Andir Riettlaatra byggia, Lausar vid Harm og Holldsins Bønd, Heims Vellyst aungva þyggia, þar kiemur eckert Angur nær, Eingiñ Pijna þar snertir þær, Hvad kañ oss þar ad hryggia?

Heyr nu, mijn Saal, og hygg ad þvi, Heims af Astrijdu lwiñ, Høndunum DRottiñs er þier i, eilijf Hugsvølun bwiñ, millum blessadra Handa hañs, aa

Hørm-

Hørmunum þijnum verdur Stans, Og Grœatur i Glede snweñ.

Þo ad i Heime Hiartad mitt, Hvørskins Þiœaning ar lijde, Eg veit þvi seirna verdur fridt, Vijst þvi eg eckert kvijde, Himneske Fader, Høndeñ þijn, Hrygdar-Tœareñ af Augum mijn, Af-þerrar øll um sijder.

Ur þiñe Hende eingeñ fær, Ønd mijna burtu slited, JEsu Blood-Fadme bijr hun nær, Brwdguma siñ fær lited, Hana þadañ ei hrekia kañ, Heimur, nie nockur Veralldar-Mañ, Medur Bakmælum bited.

O! hvad sæl ertu Sœal mijn þa, Er slijkañ þu Bwstad hlijtur? Jardnesku Hreise horfeñ frœa, Himneskrar Dijrdar nijtur, Augsyn Guds sier œan Enda þar, Endalaus Prijde Vegsemdar, Ad þier nuñ Ei lijfd lijtur.

Vertu þvi glød mijn sæla Sœal, Sorg lœat þig aungva beigia, Fagni nu Hiarta, Hugur Mœal, Hier er Stund ein ad þreya. Deyddur sigrade Daudans Kijf, DRotteñ JEsus vort rietta Lijf, Abate er oss ad deya.

Sijng þvi fagnande Sœala mijn, Siœa, Hvar er Daudans Skeyte? Helvijte nu er Hroosun þijn, horfeñ ad øllu Leite, Daudeñ svelgdur i Sigur er: Sæll HErra JEsu Dijrd sie þier, Sem oss Sigureñ veiter, AMEN.

## Andlœats-Psalmur, Ordtur af Sr. Gudmunde Erlendssyne.

### Ton, Gude Lof skallt Ønd mijn iñа.

EMdurlausnareñ ljwfe, Lijfed mitt og Verndeñ trw, Elskañ þijn ei wtskwfe, Ordum þeim sem eg mæle nu, Daudans þa Tijdeñ tvista, Tilfellur so sem ber, Lœat ecke Neyd mig nijsta, Nœadeñ þijn væge mier, Ad eg sætlega sofne, Sijdañ a Doomsins Dag, Eins lijka Endurlifne, J þeim Fagnadar-Hag.

Heimeñ so kijs ad kvedia, Og komast hiedañ med Hvijld og Roo, Sœal mijna sætt mun gledia, Sigrare Daudañs A og O. Hijr situr Himna Kongur, Hœatt yfer Cherubin, Eins er og eiñ Gull-Hrijngur, Endalaus Nœadeñ þijn, Eirn Gimsteirn allra beste, O JEsu Marin Son, Einum þier œa eg feste, Alla Hiœalpræddes Von.

Hvenær sem fer eg hiedañ, Harmkvælum Daudañs nœalægist, eg horfe æ œa medañ, uppa þig DRotteñ JEsu Christ. Þu hefur sagt þad siœalfur: Sa sem geymer mijn Ord, Grimt skal ei Daudañs Giœalfur, Giøra þeim Andar-Mord: Item: Þeir eru Sæler, Ord Guds heyra med Gœat. Heyrdu þad Milldur, Mæler; mig æ þeim fylgia lœat.

Dijrmætur fyrer DRottne, Daude Riettlœatra Mañа er, Þo ad Hiervisteñ þrotne, Þusund betra

medtøkum vier, Ad sꜳ Guds Andlit blijda, Utvøldum rijkia hiꜳ, Siyngiande med þeim sijdan̄, Sanctus og Gloria. O þan̄ eilijfa Sooma! Æ þa Fagnadar Stund! Nær mun eg nꜳ þar koma, Og nꜳlægiast þin̄ Samfund?

Eg veit ad Liwfur lifer, Lausnare min̄ i Dijrden̄e, Øllu Rꜳdande yfer, Uppvekur mig wr Jørdun̄e, Eg mun med eigen̄ Augum, Eilijfan̄ Gud min̄ sꜳ, En̄ ecke An̄arlegum, Eflaust þar treyste ꜳ, Lꜳttu mig þola og þreya, Þad sem ad Høndum ber, Sijdan̄ sætlega deya, Siꜳlfur DRotten̄ i þier:

Ad stande eg fyrer Stoole, Stødugur þijns mykla Dooms, ꜳ Himnesku Høfud-Boole, Hoolpen̄ i Adkvæde þijns Rooms: Þad mier ad noogu næger, Meins an̄ars kresia vil, Huga mijnum þad hæger, Ad hura jafnan̄ gott til, Þig med Føgnude ad fin̄a, Frꜳskilen̄ Eymd og Sorg, Lꜳttu so Lijf mitt lin̄a, Ad lende eg i þin̄e Borg, AMEN.

## A medan̄ men̄ fylla upp Grøfena med Molld, sie sungen̄ þesse Epterfylgiande Psalmur, Edur fleire ef Þørf giørest.



Nu lꜳtum oss Lijkaman̄ grafa, og aungvan̄ Efa a þvi hafa, a Efsta



Deige upprijs han̄, J Dijrd sem alldrei bregdast kan̄.

Hollded er Jørd og af Jørdu, Ad Jørdu eirnen̄ aptur verdur, Þad rijs af Jørdu Efalaust, Þa uppkiemur Guds Lwdurs Raust.

J Guds Rijke Aunden̄ lifer, Eilijf Myskun hen̄e hlijfer, Fyrer Christum han̄s kiæra Son, Kvitt vid Synder og Daudans Von.

Han̄s Mootlæte, Hrygd og Mæda, Hefur nu øll Ending gooda, Ok Christs um̄ sijna Æfe droo, Er

nu

nu Framliden, Lifer þo.

Eilijfan Frid Onden hefur, Allt til Dooms Dags Hollded sefur, Gud þa af Jordu uppreiser þad, Odaudlegt, Heillt og Forklaarad.

Lwen stilldest han vid Heimen, J Himna Sælu er nu komen, Þar lifer han hia Lambsins Stool, Lioomar ætijd sem skiæra Sool.

Sofe han (hun) nu hier i Fride, Heim vier gaungum fra þessu Leide, Sem best jafnan sig side hvør, Svo vitiar Dauden lijka vor.

Þar til hiaalpe oss HErra Christe, Hvør med sijnu Bloode oss leyste, Fra Diofle, Pijnu, Dauda og Heim, Dijrd, Heidur, Lof sie Konge þeim, Amen.

Þegar heim er geinged fra Grøfenne, sieu sungen þau Tvø sijdustu Vers af fyrerfarande Psalme: Sofe han (hun) nu hier i Fride, etc.

## Bænar Psalmur, ad vier mættum a Daudan ætijd minnast.

Af þeim 39. og 90. Davids Psalmum wtdreigen.







Eins er mijn Æfe og Þverhønd breid, Allskins bladen med Sorgum, Lijtels verdt er mitt Lijfsins Skeid, Underlagt Eymdum mørgum, Fallvallt og uiisg Forgeingelegt, Fanijtt og þar med Hiegoomlegt, Eins sem Draumur og Skugge.

Vort Lijfsins Bloom er Sorg og Stwt, Og so sem Grased

Grafed Vallar, Lijka sem Ræda lijdur wt, Edur lesnar Søgur fniallar. Sem Fulgar flwgum burtu vier, Fliott eins og þa Strauminr fer, Gud Meñ so burtu kallar.

Þoott marger Meñ i Heime hier, Hiegoomlega sig mæde; Til einkis giøra þeir allt þad sier, Fyrer Aud og Rijkdooms Giæde, Og vita ei hvør þad hliota skal, HErra kieñ mier mitt Daga-Tal, So ad eg Huggun-nœde.

O Gud þu ert mijn Adstod best, aa þig miñ Ande treyster, Mijn er sw Boon og Pørseñ mest, Mig fraa Andskota leyser, Frels mig fraa Daudans dapre Pijn, DRotteñ vardveit þu Saalu mijn, Og til Lijfs mig uppreiser, Amen.

## Hymnus Prudentii in Exeqviis.



Iam mœsta qviesce querela, lacrymas suspendite matres, Nullus sua pignora



plangat, Mors hæc reparatio vitæ est.

Qvidnam sibi saxa cavata? Qvid pulchra volunt monumenta? Res qvod nisi creditur illis, Non mortua sed data somno.

Nam qvod reqviescere corpus, vacuum sine mente videmus, spatium breve restat, ut alti repetat collegia sensus.

Venient cito secula cum jam, socius calor ossa revisat, animataqve sangvine vivo, habitacula pristina gestet.

Qvæ pigra cadavera pridem, tumulis putrefacta iacebant, volucres rapientur in

in auras, animas comitata priores.

Sic semina sicca virescunt, jam mortua jamqve sepulta, qvæ reddita cespite ab imo, veteres meditantur aristas.

Nunc suscipe terra fovendum, gremioqve hunc concipe molli, hominis tibi membra seqvestro, generosa & fragmina credo.

Animæ fuit hæc domus olim, factoris ab ore creatæ, fervens habitavit in illis, sapientia, principe Christo.

Tu depositum tege corpus, non immemor ille reqviret, sua munera fictor & auctor, propriiqve ænigmata vultus.

Veniant modo tempora iusta, cum spem Deus impleat omnem, reddas patefacta, necesse est, qvalem tibi trado figuram.

## Sami Psalmur aa Islendsku, med sama Ton.

Syrgium vier ei Saaluga Brædur, Syrgium hvorki Fedur nie Mædur, riettlaata Meñ Daudiñ ei deider, Uñ Dyrnar til Lijssins þaa leider.

Hvad gyllder sa Grøftur aa Steinum, Eda Grafer af Marmara hreinum? Sa hiñ Saalade sætlega Deyde, Hañ sefur og lifer i Gude.

Loks mun þessi Lijkamiñ styrdur, Sem liggur i Grøfiñi byrgdur, Med Skilningi og Skynsemdar Sooma, Alskijnandi i Dijrdiñi lioома.

Vijst kiemur sw Vegsemdar Glediñ, vermast Beiniñ styrdnud og Frediñ, sijns Lijkama so mun þa vitia, Saaleñ, þar hun fyrre nam sitia.

Lijkiñ þau sem leingi hier rotna, lijfgnd þa med Saaluñi drottna, Leyptrande i Loptid sig færa, Liooma betur eñ Sooliñ skiæra.

So siaaum vier Frækorn aa Folldu, þad fwnar og rotnar i Molldu, med Avøgsi og allskonar Blooma, upp aptur aa Voriñ þau koma.

Hyl Jørd, vor sameigiñleg Moodir, Lijkama sem Holldid og Bloodid, Nær og forvara Mañiñ þañ dofna, Naadugt so i þier meigi sofna.

Hañs var Saalar Heimilis Stadur, Heilagur af DRottni skapadur, Hreiñ Skilningur, Hug-Vit og Miñi Haaleitlega binggu þar iñi.

Flioott kiemur sw Fagnadar Tijdiñ, þa Frelsariñ uppvekur Lijdiñ, ad sa sami sem hier var grafiñ, Til Sæluñar upp verdur hafiñ.

Laatiñ hier nu Lijkamiñ bijdi, þañ Lausnariñ vekur uñ sijdir, Mañskiepnuna Molldiñ þoott geymi, Mynd siñi Gud alldrei gleimir.

Sami

## Sami Psalmur wtsettur aa Islendsku af S. Stephane Olafssyne, ad Valla-Nesi, maa syngia nær med sama Lagi, og lam mæsta qviesce querela.

PEnañ Tijd, Pwngbært Lijd, hverri Harms-Kvein, hepti Moodir Harma-Floodid hvør ein, Afkvæmiñ eingiñ sijn harmi aa Haudri, Endurbvot, Er Lijfs flioot ordiñ Daudi.

Steinarnir wthøggnir og Leidiñ breitt, hvad mun þad, þijda añad eñ þetta eitt, ad Hlutur sa, hvør þeim hiaa, hyrdist uñ Stund, Hel beid sijst, eñ hrepti vijst, hægañ Svefn-Blund.

Sioaum vier hvijla hier Holldid snaudt þo, Andaþrotid og Hugskoti svipt so, Pa er saumt þar til skamt þad sær aptur, Skijra Daad og skialleg Raad, Skilnings Kraptar.

Alldir þær þokast nær, þa i Mañs Bein, Edlis-Hitiñ aptur vitiar Ofein, eirniñ þær fyrri sær borid Bwdir, lijfgadar lijkt sem var Lijfs af Bloodi.

Lijkiñ þau Magnlaus misg til Molldar snwiñ, Laanga Stund laau undir Leidum swiñ, verda haatt furdu fliott, Færd i Hædir, Og filgiast ad eptir þad Ond og Lijf bædi.

Vita maa, vaxa so visnud Sædi, Groodsku snaud giørvøll daud og grafiñ bædi, Jardar-Dypt wr sem ypt Uppvøxt þraadu, Kiarn-goodra Korn-Staanga, Eins, og aadur.

Jørd tak nu þeñañ þu þiida Værdi, Vafeñ Skauti, þijnum Prantum fraa frij, eg nu liaa legg og fæ Limi Mañs þier, Dskugar og Leifar ad þu geymir.

Saaliñ swo hafdi Hws halldid þetta, Skaparans, Skiæra Mañs-Skiepnañ rietta, Baadum lied bædi med Bygdi og gistr, Vitskañ haa, eñ hun var fraa HErranum Christe.

Jeg þig bid, Jørd tak vid laatnu Lijki, sijna Giøf utañ Ef, aptur sækir, Skapariñ Ogleymiñ eptir þetta, Andlitsins eirniñ sijns Eptirmynd rietta.

Kiemur Tijd swo uñ sijd sem viss kallast, Christur hier uppfyller eirn Von alla, Er mijn Trw opund þu aptur giefir, sialf med Hynd somu Mynd, sem eg fæ þier.

## Eirn goodur Huggunar Psalmur, Ton, Naatturañ øll og Edli Mañs, etc.

VErdi ætijd hvad vill miñ Gud, Vilie hañs er jafnañ hid besta, Vijs er þeim jafnañ Vernd og Stod, vid hañ sem sijna Trw festa, Hañ hiaalpar trwr, Eymd allre wr, Og agar Verølld i Maata, Pañ aa hønum Traust, hefur Efalaust, Ei vill nie kañ forl aata.

HErra Gud Traust og Heill mijn er, Hiaalp, Von, Lijf, Eilijf Sæla, Hvad sem hañ vill þad verde mier, Vil eg ei þvi moote mæla, Hañs Millde klaar, Mijn Høfud-Haar, Hefur øll taled aan Efa, Uñ Noott og Dag, Miñ þurar Hag, Hiaalp nooglega vill mier giefa.

Par fyrer auma Verølld vid, Vil eg nu fwslega skilia, Til miins Drottens i fullañ Frid, Fara epter hañs Vilia. Fel mijna Aund, J Fødursins Hond J Framfør og Sijdasta Voda. Gud eilijfe, mier yser sie, Andskota, Synd, Vijte, Dauda.

Þvi sie Dijrd, Heidur, Pøck og Lof, Pier Fader allrar Millde, Hvør oss kiærasta Son siñ gaf, Synd Heims þaa bæta skyllde, A hañ þeim hlood: O! Mañleg Piood, ætt þier slijkt vel Hugfesta, Þvi hura tijdt, Og þacka blijdt, Pa Naad og Myskun mesta.

## Eirn goodur Psalmur, Ton, JEsus Christus er vor Frelsare, etc.

Ljknarfullur Gud og goodur, Giæskurijkur og Polenmoodur, Skrijd eg til þijn, Pitt Skiepnu Barn, Skapareñ allrar Naadar giarn.

Ad Footum þijnum ser eg ad kriwpa, Flatur vil eg þar nidur driwpa, Af þvi eg hefe ædur spurt, Aungvañ þar komeñ Pu reker aa burt.

Siaa þu Barn þitt saarlega grætur, Sier helldur vid þijnar Fætur. Augunum mæne eg uppaa þig, O Gud kiendu i Briooste uñ mig.

Vidurkieñe eg Misgiørd mijna, Møgulegt er þo ei ad sijna, Synda Audsiygd og Svijvirding, sem eg er hladeñ allt uñ kring.

Syndugre Skiepnu Sooln under, Sañlega ecke siña munder, So sem er fleckud Saaleñ mijn, Samt flij eg þo aa Naader þijn.

Soddañ Hiartans Kvøl mig kremur, Kvijdande Briooft sier nidur-lemur, Uñ Naad bidiande nu i Dag, Neyd ædur kiemur og Neideñar-Slag.

Hegna mier ef villder vcikum, vondum epter Makleg leikum, Stædest eg ei þañ strainga Doom, Stødve Reidens Naadeñ froom.

Bliwgt og skielkad Briooft og Siñe, Beyge eg fyrer Majestat þiñe, So sem Eirn Lijflaus Sakamañ, Siøfalldlega til Dauda vañ.

Allt Gott giørde eg af mier ad briioota, Olucku hvøria verd'eg þvi hliioota, Eins i þessum og ødium Heim, Of-bijdur mier vid Pijslum þeim.

Nu er mitt Hiarta haatt þo kveine, Hardara ødrum Marmara-Steine, Mijke þad JEsu blessad Blood, So brædne þad ei i Vijtis Glood.

Mætte ad søñu molast i Parta, mitt Staal-Siñe og Steindaudt Hiarta, Nær þeinke eg uñ mijn Saalar Saar, Sijta ætte eg heitt med Bloodug Taar.

Væg þeim auma Veslings Orme, Sem veikare er

eñ

eñ Rik fyrer Storme, Þu sem ert DRotteñ sialfur saa, Saal, Holld, deyda og Lijfga maa.

Skijl mier under Skugga þijnum, Skøm̃ so eingeñ verde mijnum, Ovinaña og gledie Gied, Giete þeir mijna Hel-Før sied.

Veit ad eingeñ Vøm̃ nie Sneipa, Nie Veralldar Spott mier kuñe ad steipa, Legg aa sialfur þitt Lijknar Hrijs, Laangtum helldur þad fyrer mig kijs.

Jeg vil i þijnar Hendur helldur, Eñ Heimsins Maña, verda selldur, Med þeim eingeñ Medaumkan er, Eñ Myskun og Naadeñ noog hiaa þier.

Soddañ Huggun Saal mijn hefur, Syndernar þu fyrergiefur, Asmaa þu þær sem añad Skij. A hvørn Morgun er Naad þijn ny.

Laat mier ecke Olucku alla, aa Elle-Døgum hier til falla, Sem i Æskuñe safnad hef, Synd mijna Gud mier fyrergief.

Laat ecke þijna Reide rietta, Rijkur af Naad i Koll mier detta, Ei verdur mier sw Byrde bær, Biarga mier Aumum Fader kiær.

Sialfur veit þad Sonur þiñ goode, Hvad saart er ad mæta Reideñar Floode, Þa hañ i Pijslar Baale brañ, Bloodugur þegar Sveiteñ rañ.

☞ Fyrer hañ beyska Blooduga Sveita, Biørg virdstu mier og Vægd ad veita, Þu fyrerdæmder sialfs þijns Son, Søkudum hlijf þvi mier hañs Pioon.

Mig skal i DRotteñs Vijge veria, Þa vill þijn Reide aa mig heria, Eg veit mig sakar alldrei þar, Añad er ecke neitt Forsvar.

J Biarg-Skorn Naadar nya, Nu vil eg undañ Reide flya, Þad er þitt JEsu Sijdu-Saar, Saal mijn þar ørugg iñe staar.

Þar er sæta Saalar Fæda, Og sw Lækning sem mig maa græda, Þar er lifande Lijfsins Skiool, Lofsæl Glede og Naadar-Bool.

Þar er sw lifande Lijfsins Kjellda, Sem laugar mijna Saalu hrellda, J þañ sæta Svølunar Bruñ, Saalar miñar nu þyrster Muñ.

Hiørtuñ Gud þu hrelldra gledur, Hwngrada øllum Giædum sedur, Læknar þu hvørn sem Lemstur ber, Lijka styrker þañ veikur er.

Ad søñu kañtu audga snauda, Oreigana, og reysa af Dauda, Vøkva kañtu eitt visnad Korn, Verkar þu Odaudleikañ vorn.

Makt og Naad þijna hvør kañ herma, Huga miñ virdest Sedia og verma, Lijka audga og lækna øll Mein, Lijfga og Stirkia Holld og Bein.

Þad skal vera þier Eilijf Æra, Einglar og Meñ sem kuña ad færa, Ad þu Bænheyrder Aumañ mig, Af Jñstre Root eg kalla aa þig.

Þu sem lofar Lijkn ad veita, Laungu aadur eñ Meñ þijn leita, Bænheyrer oss fyrr eñ vonum vier, Vægdu nu JESU Aumum mier.

Væg þu mier Aumum Vesalinge, aa Veralldar Sijdasta Þijnge, Utskwfa þu mier ecke þa, J eilijfañ Elld og Kvala Praa.

Leid mig iñ i Lioos med Sooma, Laat mig þaang ad uñ sijder koma, Þar sem er Daasom Dijrdeñ þijn, DROTTEñ, Þu sem Lioomar og Skijn, Amen.

## Þesse Epterfylgiande Vers eiga ad siingiast af Predikunar-Stoolnum, aadur eñ Gudspialled er lesed.

### 1. Suñudag i Adventu.

Ton, Eirn HErra eg best ætte, etc.

ÞAcker vier glader giørum, Grædariñ JEsu þier, Zions Børn ordner erum, Og þijn Dijrd komeñ hier, J Naatturu og Naalægd vora; Naad sw er Under-Root, Vorra vidriettra Kiøra, Og Vegleguft Meina-Boot.

### 2. Suñudag i Adventu.

Ton, Sæll er sa Mañ sem hafna kañ, etc.

UPPhefium Høfud og Augu med, Endurlausn vorre a mooti, Eflaust faaum vier Son Guds sied, Sorg øll trw eg þa þriooti: Sæl mun vera sw Sumar-Tijd, Sooluñi fegri Ar og Sijd, ad glediast af Guds Augliti.

### 3. Suñudag i Adventu.

Ton, Gief þiñi Christni goodañ Frid, etc.

FUlltijng veit JEsu Þioonum þijn, Þiñ Veg so til reidt gieti, Wijsande kieñi Sveinum siin, Ad Saûleikans hiaa þier leiti, sem þægilegt er i þijnu Augliti.

### 4. Suñudag i Adventu.

Ton, JEsus Guds Son Eingieteñ, etc.

SAñleiks Meistareñ mæte, Mier kieñ ad þeckia þig, Med Hiartans Lijtelæte, Og lækka sialfañ mig, Og ad mijn Nødd þad roome, Sem Naadhollt er Christiñdoomi. Leid oss a Lijffins Stig.

### Uñ øll Jooliñ, og til þess a Kyndil-Messu, Siingist:

J Dag Eitt Blessad Barned er, etc. Pag. 33.

Og sijdañ til Alyktunar:

Honum ber jafnañ, etc. Pag. 29.

### A Joola Noottena, Joola Dagiñ, og Nijaars-Dag, Siingist sialft Versid Prisvar, (Eñ ei nema Einnsiñe hina Helgu Dagana.)

### 4. Suñudag epter Prettanda.

Med Himna Lag.

EG fel þier JEsu øll mijn Kiør, Alltijd vertu med mier i Før, Uñe mier Naad þijn aastrdlig, A

Eitt gaangi yfir mig og þig.

Vertu styrkur Stafn-Bwi miñ, Stijri Ferdiñi Andi þiñ, leif mier eg sie þiñ Lærisveirn, lini ei Trw mijna Haaski neirn.

## 5. Suñudag epter Prettanda.

Ton, Konung David sem kiendi, etc.

EG hreifa a Poliñmædi, þiñi Gud DRottiñ miñ, Sem hleipir ei Heiptar-Brædi, hastri a Illgresiñ, Ef skie mætti sæi ad sier, Og Goodir wr Illum yrdi, Er þier kiærast þad verdi, Ofta eg þess aumum mier.

Gud miñ hitt gooda Sædi, gief Avaxtist hia mier, So hafi eg þar af Hiaalpræði, Sem Himneskt og Eilijft er, og verdi so Hveiti hreint, i þijnum Akri fundiñ, eñ ecki i burtu hrundiñ, sem Illgresi i Elldi brendt.

## 6. Suñudag eptir Prettanda.

Ton, JEsus Christur ad Jordan kom, etc.

FRijdi JEsu, Þu fieckst af mier, Formyrkvan Mañdoomlega, Forklaaran aptur fagra af þier, Feinged hefe eg Andlega. Eja, Blessad sie Andlit þitt, Eirneñ þiñ Klæda-Bloomi, sem uñ-myndar Saalar Andlit mitt: A Efsta bid eg þig Doomi, gief eg Lioos-biartur lioomi.

## Suñudagiñ i Nijuvikna Fostu.

Ton, Dagur i Austri øllum, etc.

Lijkna mier Son Guds sæti, Samvitskañ mijn er veik, Gief hiaa þier Myskun mæti, meiri eñ Verdugleik, og framar ad Giøf eñ Gialldi, gior mig Hluttøku-Mañ, J Signadrar Sælu Velldi, Sem þijn Hlijdni til vañ.

## 2. Suñudag i Nijuvikna Fostu.

Ton, Giørvøll Christneñ skal glediast nu, etc.

TIgnud sie JEsu Tungañ frood, Talande i Lijking skijrri, Sañleik Guds fyrir siñi Þiood, Og sijndi i Rædu þeirri, Astrijki Guds med allañ Sañ, i Eilijfu Raadi hefur hañ, Huxun a Velferd vorri.

## Edur og þetta Vers.

Ton, Blijde Gud, Børnum þijnum ei gleym.

SAlfnan Christs, Sem ert i Helgre Rød, miñ Velferd viss, Vertu i Drottne glød, Preñañ hañ med Packargiørd, Pier ber ad lofa, Veit hañ, þu ert vesøl Hiørd, Vill þier þo giefa, Hiaalp i giegn, Hvørs konar Voda, Lijka Megn, Ad leita hins Gooda, Og Friovssamt Regn, Fagurlegs Grooda, Hakeldama hañs þu ert. Hvør sem Eyru hefur ad liaa, Heyre sa DRottne. Hvør sem Augu hefur ad sia, Horfe moot DRottne. Hvør sem Tungu hræra maa, hrjose sa DRottne.

## Suñudageñ i Fostu-Jñgaang.

Ton, HErra Gud i Himnarijke, etc.

Vatns-

VAtns Skijrn þijn JEsu Vegsamleg, Ver mig Samvitsku Pinum, Hreinsadur er i heñe eg, Hollds af Saurendum mijnum·

Vijgdur til Biskups varstu hier, Med Vatne og Anda smurdur, Heilagur til Hreinsunar mier, Hlautst þu ad verda Skijrdur.

## 1. Suñudag i Føstu.

Siûngest Fyrsta Vers af þeim Psalme.

Ovinañleg Borg er vor Gud, etc. Pag. 139.

Edur Siøunda Vers i Psalmenum:

Fader vor sem aa Himnum ert, etc.

Ei leid þu oss i Freistne iñ, etc. Pag. 172.

## 2. Suñudag i Føstu.

Fyrsta Vers af þeim Psalme:

A þig alleina JEsu Christ. Pag. 173.

## 3. Suñudag i Føstu.

Ton, O Gud miñ HErra aumka mig, etc.

HEidrad sie JEsu Hreiste-Verk, Er hremdañ Saud greyp wr Ulfsens Kverk, Dumbum gaf Maal og Miñe, Mynd prijdde aptur siñe, Sæll er sa Kvidur sem þig bar, Sæte JEsu til Adstodar, Afskræmdum Adams Nidium. Avi, vier þig tilbid-inn: Orded laatti og Anda þiñ, wtreka fraa oss Diøsuliñ, So ad sierhvør i siñe Stiett, Siaae, Heyre, og tale riett, Og haaleitast Guds Nafn gøfge.

## Midføstu Suñudag.

Ton, Sæler eru þeir aller nu, etc.

DAasamleg er sw DRottens Frægd, DRotteñ sialfur er eilijf Nægd, Hañs sitteft Høndeñ alldrei. Allt giørde i Fyrstu wr aungvu hañ, Eñ i Dag drygia lijted kañ, So verde ad Mergd marg-falldre: Augu Skiepnaña øll til Sañs, Uppmæna aa Hendur Skaparans, Og hañ þær allar fedur, Eirneñ Hræ-Kynda aumañ Lijd, Almaattugur aa riettre Tijd, Blessadre Millde medur.

## Suñudageñ epter Mid-Føstu.

Ton, Naatturañ øll og Edle Mañs, etc.

HErra JEsu þijn Hroosun er, Haaleit i Guds Auglite, Um̃ Brest kuñe eingeñ ad brixla þier, Bætnust so øll mijn Lijte, Syndlaus þu varst, Sialf-ur þo barst, Søk mijna þier aa Herdum, Var þier þvi Last og vondt Adkast, Veitt i Lijgeñar Ordum.

## A Bodunar Dag Mariæ.

Fyrsta Vers af þeim Psalme:

Millde JEsu sem Mañdom tookst, etc. Pag. 50

## A Paalma Suñudag.

Ton, Eirn HErra eg best ætte, etc.

FRelsareñ Fridar-vijkur, Faatækt sem leidstu hier, Saal miñe Audlegd eykur, Dreygd sem laa aa þi-er, Villder þu Læging lijda, Og laata so þeckia þig, aa añars Mañs Øsnu rijda, til Æru og Hefdar vid mig.

## A Skijrdag.

Tvo Fyrstu Vers af þeim Psalme:
JEsus Christur er vor Frelsare. Pag. 9.

## A Paaska Hatijdeñe tilUppstigningar Dags:

Christur reis upp fraa Daudum. Pag. 89.
(Prisvar og Hatijdeñe, eñ Einusiñe og Suñudøgunum.)
Sijdañ til Alyktunar:
Sigrareñ sæte, Sonur Guds vor giæte, etc.

## A Uppstigningar Dag.

Christur til Himna uppfoor. Pag. 98.
Sijngest Prisvar, (Eñ ei nema Einusiñe Suñudageñ epter.)

## A Hvijtasuñu Døgum.

Fyrsta Vers af þeim Psalme.
Nu bidium vier Heilagañ Anda. Pag. 5.
Edur: Christur siñ Anda sende. Pag. 105.
(Prisvarsiñum.)

## A Trinitatis Hatijd.

Pad Seinasta Vers af þeim Psalme:
O HErra Gud oss Helga nu. Pag. 219.

## 1. Suñudag epter Trinitatis.

Pau Tvo Fyrstu Vers af þeim Psalme:
Mitt Hiarta hvar til hryggest þu. Pag. 121.

## 2. Suñudag epter Trinitatis.

Pang Tvo Fyrstu Vers af þeim Psalme:
Guds Son kallar, Komed til mijn. Pag. 146.

## 3. Suñudag epter Trinitatis.

Ton, O vier Syndum setner, etc.

BJD eg nu Blessan þijna, Blijde Fader miñ, Auktu Ydran mijna, Fyrer Anda Krapteñ þiñ, So Fridarens Einglar fagne, Med fogrum Dijrdar Her, Yfer þvi Edla-Gagne, Sem Yferbout med fylger. DRotteñ þijn Dijrdeñ er, DRotteñ eg treyste þier, DRotteñ Myskuna mier.

## 4. Suñudag epter Trinitatis.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

GJef þu i Hiartad Myskun mier, Milldur Gud, Ad eg lijkest þier, Heptu mig æ af heimskum Doom, Hiaalpa ad mijn sie Lundiñ froom, Wid mijna Brædur so semie hier, Ad sijdar Naad þijna findum vier.

## A Jons Messu Baptistæ.

Fyrsta Vers af þeim Psalmi:
Blessadur ad Eilijfu sie. Pag. 220.

## 5. Suñudag eptir Trinitatis.

Ton, Allt mitt mitt Raad til Guds eg set.

Gladur:

Gladur nu wt a Diwp eg dreg, J DRottiñs Nafnì uppleysi eg, Net allrar Ydiu miñar, Hepne mier gooda hlotnast lat, Og hvorium a siñ Embættis Boat, Gud vegna Giæsku þiñar.

## A Vitiunar Dag Mariæ

Pad Fyrsta Vers af þeim Psalme:
Lof saung Gude Mey Maria. Pag. 221.

## 6. Suñudag eptir Trinitatis.

Fyrsta Vers af þeim Psalmi:
A þig alleina JEsu Christ. Pag. 173.

## 7. Suñudag eptir Trinitatis.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggist þu.

Almattugur um̃ Lopt og Land, Lausnariñ hefur nooglег Raad, ad næra Naudstaddañ, Og fram ad færa Fielausañ, Fotum príjda nakiñ Mañ.

Metta hellst DRottiñ mijna Hnd, mijn Augu horfa a þijna Hønd, Sem Milld og Mattug er. Lifa og deya lat oss þier, i Lijfi og Dauda biarga oss hier.

## 8. Suñudag eptir Trinitatis.

Pad Fyrsta Vers af þeim Psalm:
Natturañ øll og Edli Mañs. Pag. 54.

## 9. Suñudag eptir Trinitatis.

Pau Tvø Fyrstu Vers af þeim Psalmi:
Af diwpre Hrigd akalla eg þig. Pag. 65.
Edur þetta Vers.
Ton, Hvør sem ad reysir hæga Bygd, etc.

HErra JEsu mier Hugur er a, Hylli þiñar ad nioota, Hwss-Rædi lat mig Himneskt fa, Heims-Visiñ nær vill þriòota, Vijsa mier þar til Veg og Raad, Vinattu þiñi gieti eg naad, sem opt nam af mier brioota.

## 10. Suñudag eptir Trinitatis.

Fyrsta Vers af þeim Psalmi:
Væri nu Gud oss ecki hia. Pag. 128

## 11. Suñudag eptir Trinitatis.

Fyrsta Vers af þeim Psalmi:
Nu bid eg Gud þu Naadir mig. Pag. 153.

## 12. Suñudag eptir Trinitatis.

Ton, Myskuna þu mier milldi Gud, etc.

Mier fiendu Gud ad mæla riett, So Frægdar Friett, Frelsara mijns wtbreidi, sem allt giørir vid mig einka vel, Eirniñ þo Hel, wr Heimi mig hiedañ leidi. Hatt losad sie Vort Hialpræde, sem fyrir oss, Saklaus a Kross, Eins og Lamb wt af deydi.

## 13. Suñudag eptir Trinitatis.

Fyrsta Vers af þeim Psalmi:
Sælir eru þeir allir nu. Pag. 126.

## 14. Suñudag epter Trinitatis.

Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Sꜳl, etc.

EG vil falla til Foota þier, Frelsareñ JEsu vægdu mier, Ond mijn Spitelßku illt ber Mein, Avi, Eg bid hun verde hrein. Mier og Samspilltum Lijkn þu lieꜳ, Lꜳt oß alldrei þier falla frꜳ. Þier skal Eilijfar Packer tieꜳ.

## 15. Suñudag epter Trinitatis.

Sijngest eins og Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Edur þetta Vers. Ton, A Eirn Gud vil eg trwa

GUds Rijke er Glede og Fridur, i Gudspialls Nꜳdar sætre Fregn, Af Anda Guds oß bodadur, Ovina vorra Strijde i giegn, HErrans Heilagt Riettlæte, Hylur vorn Misgiørning, Þvi Lagaña Brot øll bæter, Hañs blessud Fridþæging, Hvørium sem hellst þeß leita, Hitt añad allt tilgiefst, Sem hañ sier Hag ad veita, Heit-Ord Guds alldrei bregdst.

## 16. Suñudag epter Trinitatis.

Ton, Um Daudañ gief þu DRottiñ mier, etc.

LAusnareñ JEsu Lof sie þier, Fyrer Lijkn og Huggun þijna, Lijfs og Daudans þu Lykla ber, Lijttu ꜳ Naudsin mijna, Burtfør giefdu eg bwest vid, Blessan gief mier og Sꜳlar-Frid, Nær Lijfs-Dagarner dvijna.

## 17. Suñudag epter Trinitatis.

Ton, Sæll er sꜳ Mañ sem hafna kañ, etc.

HVad leinge Gud mier gleymer þu, Giørsamlega til Enda? Og hvørsu leinge ætlar þu, Asioon frꜳ mier veñda? Hvad leinge Rꜳd eg hyxa skal, J Hiarta mijnu þwnga Kvøl, Allañ Dageñ til Enda?

## A Michaelis Meßu.

Þad Fyrsta Vers af þeim Psalme:

Oviñañleg Borg er vor Gud. Pag. 139.

Edur þetta Vers.

Ton, Giørvøll Christineñ skal glediast nu, etc.

O Gud sem lætur Eingla-Her, Oß nu a Høndum bera, Og lꜳnga Reisu leida hier, Lijfs um Eydemørk þvera. Lꜳt þa sømu þa Lijf vort dvijn, Leida oß iñ i Dijrd til þijn, Uñ oß þar ꜳsamt vera.

## 18. Suñudag epter Trinitatis.

Ton, Allfagurt Lioos oß byrtest brꜳtt, etc.

LOf sie þier Gud fyrer Løgmꜳl þitt, Løg-Brotestin mijn øll gief þu kvitt, Hugferde stijrdu Hiarta mijns, So hneigest eg æ til Vilia þijns.

JEsu mier Lijknar mælltu Mꜳl, Og mijna brotlega frelsa Sꜳl, Frꜳ Ogna Straffe sem eg til vañ, Arnadar-sæte Gud og Mañ.

## 19. Suñudag epter Trinitatis.

Þad Fyrsta Vers af þeim Psalme:

Nu bid eg Gud þu Nꜳder mig. Pag. 153.

## 20. Sunnudag epter Trinitatis.

Ton, Mikillre Farsælld mætir saa, etc.

Hatign þess Konungs heidrud sie, Fyrir Himneskan Raadar-Smeck, Sem Andlegt Brullaup fraa Upphafi, oss Monnum tilreidt fieck, Sinn Hefur Dijrdar Sonin gypt, saman vid Daudlegt Holld, og Hogum þess til Heidurs lypt, Enn hann lægt ofan aa Folld, J Gypting þeirri Gud og Mann, Giordi aa þaa Leid samteingdann; Ad Edli Tvo eru til Sanns, Ein Persoona Christs, J fagri Holldgan Frelsarans, framsoor Kaupmaali viss, Dottinn vid Hagi Holldlegs Manns, hneigdist til Samlætis.

## 21. Sunnudag eptir Trinitatis.

Ton, JEsus Christur aa Krossi var, etc.

Hvorninn sem vesst eg Hormung i, Hiaalp mier ad trwa Ordi þvi, Sem þu JEsu mier seigir, So eg af ollu Faari frij, fare burt og vel deye.

Lausnari minn sem losar þu, laat mier verda eptir minni Trw, Fyrst eg þiin Ord ei Efa, Sorgum ollum i Sælu snw, Saal mijn ad megi lifa.

## 22. Sunnudag eptir Trinitatis.

Pad Siounda Vers af þeim Psalmi:
Nu bid eg Gud þu Raadir mig, etc.
Audmiwka Oud aktar Gud mest Pag. 154.

## A Allraheilagra Messu.

Fyrsta Vers af þeim Psalmi,
Gud Myskuni nu ollum oss. Pag. 123.
Edur þetta Vers:
Ton, Med Hiarta og Tungu, etc.

Meistarinn hærsti, Minn JEsu besti, laattu mig Nafns þijns nioota, send mier þinn Anda, Sannleik kiennanda, so Fognud mætti hliota, og Sælu saña, Sannhelgra Maña, Trw og Kiærleika, med Von Oveika, So Heimi fraa hverfi, Enn aa Hinnum erfi, Eilijft Lijf.

## 23. Sunnudag eptir Trinitatis.

Ton, Oss laat þinn Anda styrkia, etc.

Gilds Fodurs Geysli og Kraptur, Giædskan þijn Huggar mig, Mynd hans þu mier gafst aptur, Pa mijna tookst uppaa þig, Nij Yfirskrift þijn Raadenn er, Villtu þinn Heidur hafa, Enn Hlijdni og Ast af mier.

Laattu mig Gud þier giallda, Sognhreina Ast og Trw, og aungvu þvi inni hallda, af mier sem heimtir þu, so ad eg sie þijn Eilijf Eign, med Hiarta, Hendi og Tungu, Pioonandi þinni Tign.

## 24. Sunnudag eptir Trinitatis.

Ton, Nu bid eg Gud þu Raadir mig, etc.

Lausnara Heimsins Lofgiord sie, sem læknadi Mannleg Kraankdæme, med Krapti sijnum og Klæda Snert, Kvinnum og Monnum giordi bert, Ad Ord

hañs öll ern Almættug, Dreudum þar med Liifsvænlig Siaa til JEsu þa sijkiunst hier, ad sofnum, Eñ ecki deyum vier.

## 25. Suñudag eptir Trinitatis.

Fyrsta Vers af þeim Psalmi:
Vaknid-upp Christnir allir. Pag. 149.

## 26. Suñudag eptir Trinitatis.

Ton, Christs er Koma fyrir Höndum, etc.

JEsu miñ Brooder beste, Bid eg af Hiarta þig, Grædariñ Giædsku mesti, gack ei i Doom vid mig, Hiord allri þyrmdu þiñi, sem þolir Angrædi hardt, Ojka eg eirn med heñi, O JEsu, Kom þu snart.

## 27. Suñudag epter Trinitatis.

Sijngist sama Vers sem til er giørt Siotta Suñudag eptir Prettanda. Eñ þegar Predikad er af Gudspiallenu Matth. xx. Pa skal sijngia Tvo þau Fyrstu Vers af þeim Psalme, Guds Son kallar, Komed til mijn. Pag. 146.

# Registur þeirra Psalma og Saungva sem fiñast i þessum Grallara.



Christe

Guds

JEſus

Nafn

So

* * * * * *
* * *

# APPENDIX.

## Stutt Undervijsan um̃ Einfalldan̄ Saung, Fyrer þa sem lijted edur eckert þar wt i lært hafa, Eñ gyrnast þo Grundvöllen̄ ad vita, og sig framar ad ydka.

### 1. Um̃ GAMMANN og LYKLANA.

1 EIga þeir sem Saungeñ ydka vilia, Kostglæfelega ad læra og yfer hafa SCALAM Musicalem edur Saung-Stigañ, sem vier Almeñelega kellum GAMMA, af þeim nedsta Staf edur Lykle sem kallast a Grisku GAMMA, og so teiknast Γ, þad merker so sm̃ Latinskt G. GAMMANN eiga þeir ad kuña utañ ad, og uppa Fijngurnar, sem Saungsins Grundvöll fa vilia, bæde upp epter og ofan epter, þar med Kostglæfelega athuga, hvorier Lyklar edur Nootur sieu a Reglu, og hvoriar a Spatiu, so þeir vite þar gooda Grein a giora og tilsvara, hvort þad er ofarlega eda nedarlega i Gammanum. 2. GAMMENN er samsettur af Bookstösum og Adkvædum. Bookstaferner eru Sio stoorer, A. B. C. D. E. F. G. (þvi sa nedste Γ er so sem Fundamentum og Grundvollur Gammans) Sio eru smaaer, a. b. c. d. e. f. g. Og Fim̃ tvöfallder Stafer, aa. bb. cc. dd. ee. Hvorier sijdustu helst brwkast i Tvljsaung, þa Saungureñ geingur miög haatt. Adkvædeñ eru Sex, ut. re. mi. fa. sol. la. Sem optitrekast i Gam̃anum uppepter og ofanefter. 3. Bookstaferner (bæde þeir stooru, litlu og tvöfölldu) kallast Lyklar, hvar med Saungnum verdur upplokeð, so sem med Lykle, og feija þeir til, hvar sierhvor Noota eige heima i Gam̃anum, taka sumer til sijn eitt Adkvæde: so sem ut Γam̃ ut, re A re, mi B mi. Sumer Tvo, so sem, sol d sol re, re d sol re, la e la mi, mi e la mi, fa f fa ut, ut f fa ut, etc. Sumer hafa Priu Atkvæde, so sem sol G sol re ut, re G sol re ut. ut G sol re ut. La A la mi re, Mi a la mi re, Re a la mi re, Sol c sol fa ut, Fa c sol fa ut, ut c sol fa ut, etc. Hvad allt best kañ ad siaast i sialfum GAMMANUM.

# SCALA MUSICALIS.

Claves ... signatæ

- Γ ut
- A re
- B mi
- C fa ut
- D sol re
- E la mi
- F fa ut
- G sol re ut
- a la mi re
- b fa b mi
- c sol fa ut
- d la sol re
- e la mi
- f fa ut
- g sol re ut
- aa la mi re
- bb fa b mi
- cc sol fa
- dd la sol
- ee la

Ascensus & Descensus,

In Cantu duro, ... In Cantu molli.

ut re mi fa sol la, la sol fa mi re ut. ut re mi fa sol la, la sol fa mi re ut.

4. Eñ þesser Bookstafer edur Lyklar skrifast ei aller i Saungnum, helldur eiga þeir ad hafast i Miñe, Einkanlega teiknast þesser þrijr F fa ut Lykell (𝔉) c sol fa ut Lykell (€) og g sol re ut Lykell (g) þo brwkast g sol re ut Lykell ecke i Almeñeleguin Grallara Saung, helldur Tvijsaung. 5. Þegar þesse Lykell b fylger c sol fa ut Lykle i Upphafe, þa merker hañ þad, ad Saungureñ er linur, Eñ sie hañ i Midiuñe settur, þa snerter hañ hellst nærstu Nootu.

## II. Um̃ Linañ og Hardañ Saung, Edur þar a mille.

1. Þad kallast Cantus Mollis edur Linur Saungur, sem hefur b Lykel fyrer framañ sig, og er þa sol fa ut i F fa ut, og fa i b fa b mi, hvoriar Tvær Nootur, ut og fa kallast linar, þvi þad eru haalf-Nootur. 2. Cantus durus edur hardur Saungur, er þad sem ecke hefur b Lykel, ad framanverdu, og er þa solfad, ut i G og mi i b, sem kallast hardar Nootur. 3. Þar a mille er Cantus Naturalis edur Naatturlegur Saungur, sem hefur ut i C og nær ecke b. 4. J þessum Saung þarf ecke ad skipta um̃ Atkvæde Gam̃ans, so sem i linum Saung, og hørdum Saung, þvi þar þarf opt og tijdum ad skipta um̃ Atkvædeñ, epter þvj sem Saungureñ geingur haatt edur laagt, So sem til Dæmis. J a la mi re skiptest re i mi edur la. mi i la edur re, la i mi edur re. J d sol re skiptest re i sol, edur sol i re, etc. Hvør Um̃skipte ad skie hellst i linum Saung a þessum Bookstøfum, d. a. g. Eñ i hørdum Saung i c d a.

## III. Um̃ Samhlioodande Notur sem Saungvararner kalla Intervalla Musica, Þad er viss Bil a mille Hlioodaña.

1. Samhlioodande Nootur eru einkum þessar, Er svo nefnast: Ditonus, Semiditonus, Diatessaron, Diapente, og Diapason. Ditonus, edur fullkomeñ Terts, er a Pridiu Nootu, so sem; ut mi; fa la. 2. Semiditonus, edur linur Terts, er a Pridiu Notu Ofullkomeñ, so sem, a mille, re fa, mi sol. 3. Diatessaron, edur eirn Qvart, er a Fioordu Notu, so sem mille ut fa, re sol, mi la. 4. Diapente, edur eirn Qvint, er a Fimtu Nootu, so sem mille ut

ut sol, re la, edur mi i a la mi re, og mi i e la mi. Item fa i b fa b mi, og fa i F fa ut. 5. Diapason, edur eirn Octav, er a Attundu Nootu, so sem a mille G og g. A og a. B og b etc. Og er þetta Hliood eins til ad jafna, so sem þegar fullkomeñ Madur siingur med Ungmeñe. Framar samhliooda þessar Nootur sem hafa siin æ milli 9. Nootna Bil. 10. Nootna Bil, og 12. Nootna Bil, etc.

Heillrar Nootu Munur kallast Tonus, eñ hælfrar Nootu Munur Semitonium, og giörir hvorug þeirra Concordantiam edur Samhliodan.

## IV. Um̃ Krapt og Merking Nootnañа, Item um̃ Drag Nootur.

1 Ein hviit Rwndu Noota, sem so teiknast: ◊ merkir eina heila Nootu, sem Saungvararner kalla Semibrevem, (þad er halfstutta.) Ein Ferskeitt Noota er so teiknast, ▯ kallast stutt, og gilldir so mikid sem Tvær heilar Nootur. Ferskeitt Noota med Hala vid, so sem þesse ▯ kallast laung, og gilldir 4. heilar Nootur. Eñ hviit Rwndu Noota, med Hala upp wr, eda nidur wr kallast Minima, edur sw miñsta, og ganga sliikar Tvær i Eina heila Nootu. Svort Rwndu Noota med Hala upp wr, edur nidur wr, kallast Semiminima, edur hælf miñsta, og ganga 4. i Eina heila Nootu, hvad allt best siæst mæ af þessum Typo.

| | | |
|---|---|---|
| Longa laung, | þessar gillda | 4. heilar Nootur |
| Brevis stutt, | | 2. heilar Nootur |
| Semibr. halfstutt | | 1. heila Nootu |

Þar sem Punctur stendur hia einni Nootu, þa eykur hañ hana ad Helmingi, so sem ▯· gilldir so mikid sem Priaar heilar Nootur. ◊· Er so mikid sem hælf auñur Noota. ♩· hælf Noota og eirn Floordi Partur. 2. Samfastar Nootur, sem eckert er Bil æ milli: svo sem ▯◊◊ kallast añars Drag Nootur, edur bundnar Nootur, og siingiast þær

Minima. Minsta. Half Minsta. — 2. i eina heila Notu. 4. i eina heila Notu. — i eirnri Syllaba, hvort fleiri eru edur færri.

## V. Um nockur Teikn i Saungnum.

1. Fyrir utan Lyklana, sem aadur er umgietid, eru þar nockur Teikn adgiætandi i Saungnum, so sem ... setst optast i Upphafi Saungsins. Sie þad ... þa merker þad, ad Saungurenn geingur seint. Enn ef þad er svo ... geingur hann fliott, og so sem uppa nockurn Dans, hvad sumer kalla Trippel. Þar sem þetta Teikn ... er i Enda Lijnunnar, þa seigir þad til, hvar Nootann standi a eptirfylgiandi Lijnu, og kallast Custos. Enn þar sem þetta Teikn ... stendur, þa seiger þad til, ad þad sem fyrer framann er, aa ad Itrekast, og kallast Signum Iterationis.

2. Þagnar-Merkenn, sem kallast Pausæ, skamta hvad leinge þeygia skal vid hvoria Nootu. Þagnar-Merke laangrar Nootu, skipar ad þeigia um Fiogra einfalldra Nootna Tijma, stuttrar Notu um Tvo, Haalfstuttrar um eirn, þeirrar Minstu um haalfann Tijma, haalf minstu um Andardraatt, hvad siaast kann af þessu epterfylgiande Forme.




Enn fullkomed Þagnar-Merke er þegar yfer edur under Notunne er giørdur Haalf-Hrijngur med einum Punct, so sem þesse, og er helst i Enda Versins.

## VI. Um Choral-Saung og Figurat-Saung.

1. Pad kallast Cantus Choralis, edur Choral-Saungur, sem hefur jafnar Notur, og nefnest af þeim sem hañ hefur fyrst funded, Gregorius-Saungur, og maa hañ siaust i Grallaranum allvijda, Einkum i Latinu Saung.

2. Figural-Saungur kallast sa, sem ecke hefur allar Notur jafnar, helldur sumar leingre, sumar stytttre, og nefnast epter Authore, sem hañ hefur fyrst funded, Musica Ambrosiana, edur Ambrosii-Saungur, Þesse er allvijda i Grallaranum a Islendskum Psalmum, sem misjafnar Notur hafa.

Og er þetta so hin Styttsta og Einfalldasta Undervijsun um̃ Grallara-Saungeñ fyrer Tirones, Og þa sem lijtt Jdkader eru i Saung-Listeñe.

Fyrer þa Faafroodu setiast og svo hier til Nootur vid Tvo Psalm-Vers til Jdkunar ad tel'a ut, og Solfaa epter, Þad fyrra in Cantu Molli, edur linum Saung, Eñ þad seirna in Cantu Duro, edur hördum Saung.

1. Þañ Heilaga Kross vor HErra bar, etc. in Cantu Molli.



re re mi fa mi, mi re mi fa mi, mi mi mi la sol sol la fa mi, mi mi



fa mi fa re ut re mi mi, mi fa mi re ut fa re fa sol la sol sol.

2. Christur reis upp fra Daudum, etc. in Cantu Duro.



re ut re fa fa sol re, re re re ut sol la fa fa mi fa re, fa sol sol sol

re ut fa sol la la, la la sol la sol fa mi fa sol, re re ut re.

Fyrer þa sem leingra eru komner, og neckud skilia i Latinu, Er þetta til ad þeckia Intervalla Musica edur Modos:

Ter Trini sunt modi, qvibus omnis cantilena contexitur, scilicet uni-

sonus, semitonium, Tonus, semiditonus, ditonus, diatessaron, diapente, semi-



ſemitonium cum diapente, tonus cum diapente, ad hoc; ſonat diapaſon,



ſi qvem delectat pſallere hoc modos eſse cognoſcat.

## Til Uppfyllingar ſetſt hier eitt gamallt Aminningar Form,

### þeim til Jhugunar, er til Guds Bords gæanga.

MJner Elſkuleguſtu i Gude, Fyrſt ad vier viliu̅m nu hallda og min̄aſt Kvølldmæaltijd-ar DRottens vors JEſu Chriſti, þar in̄e ad oſs verdur gieſen̄ han̄s Lijkame til eirn-rar Fædu, og han̄s Blood til eins Dryckiar, ecke Lijkamans vegna alleinaſta, helldur Sæalaren̄ar, þvi ſkulum vier med mikellre Giætne ſierhvor ſiæalfan̄ ſig proofa, ſo ſem S. Pæall ſeiger, og ſijdan̄ af þeſſu Braude eta, og af þeſſum Kaleik drecka, þvi eingen̄ ſkal þetta heilaga Sacramentum medtaka, utan̄ alleina hwngrud Ond, ſem ſijnar Synder vidur-kien̄er, Ottaſt Guds Relde og eilijfan̄ Dauda, og ſw ſem hwngrar og þyrſter epter Riettlæt-enu. En̄ ef vier proofum oſs ſiæalfa, þa fin̄um vier ecke i oſs nema Synd og Dauda, og kun̄-um oſs ſiæalfer þar wt af aungvan̄veigen̄ ad hiæalpa. Þar fyrer hefur ver Elſkulege Drotten̄ JEſus Chriſtus aumkad ſig yfer oſs, og hefur fyrer vorar Saker Man̄voom a ſig teked, ſo ad han̄ fullnægde fyrer oſs Logmæalenu, og lide fyrer þad ſem̄ vier med vorum Syndum hofum for

ſkulldad

ſkulldad. Og til þeſs, ad vier ſtadfaſtlega trydum, og oſs gladlega þar uppaa forlaata mættum, Took hañ Brauded epter Kvølldmaaltijdena, giørde Packer, Braut þad og ſagde: Medtaked og eted, Þetta er miñ Lijkame, Sem fyrer ydur verdur gieſeñ: Sem villde hañ ſo ſeigia: Þad eg em Madur ordeñ, og allthvad eg giøre og lijd, þad er ydvart eiged, Fyrer ydar Skulld, og ydur til gooda ſkied, Og til Sañinda þar um, Gief eg ydur miñ Lijkama til eirnrar Fædu. Sømuleides took hañ Kaleikeñ og ſagde: Medtaked og drecked hier af aller, Þeſſe Kaleikur er Nijtt Teſtamentum i mijnu Bloode, hvørt ad fyrer ydur og marga wthelleſt, til Fyrergiefningar Syndaña, Giøred þetta ſo opt ſem þier þad drecked, J mijna Miñing. Sem villde hañ ſo ſeigia: Af þvi ad eg hefe ydur ad mier teked, Og ydrum Syndum aa mig hladed, Vil eg ſiaalfañ mig fyrer Syndernar Foornfæra, Mijnu Bloode wthella, Naad og Fyrergiefning Syndaña afreka, Og i ſo Maata, Eitt Nijtt Teſtamentum uppſetla, Þar iñe ad Syndaña ſkal ecke ad Eilijfu miñſt verda, Og til Sañinda þar um, Gief eg ydur mitt Blood ad drecka. Hvør nu ad ſo etur af þeſſu Braude, Og dreckur af þeſſum Kaleik. Þad er: Hvør ad þeſſum Ordum ſem hañ heyrer, Og þeſſum Teiknum, Er hañ medtekur, Støduglega trwer, Hañ blijfur i Chriſto, Og Chriſtur i hønum, Og lifer eilijflega. Þar med ſkulum vier miñaſt hañs Dauda, Og hønum Packer giøra, Hvør ſiñ Kroſs uppa ſig taka, og vorum HErra epterfylgja, Og yfer allt añad fram, Slaa vid Syndunum framveigis, Hvør añañ Elſka, So ſem hañ hefur oſs elſkad, Þviad marger vier erum Eitt Braud, Og Eirn Lijkame, Og Eins Brauds Hluttakendur, Vier aller ſem af Einum Kaleik dreckum. Gud hañ giefe oſs øllum, Ad vier þad Verduglega Medtøkum, A M E N.

## Þeſſu laatum vier fylgia Preſta-Eideñ, Sem til er giørdur i Kongl. Majeſt.

Kyrkiu Ritual, Uppaa þad Kieñemeñerner þvi betur Gudrækelega athuge og Endurmiñeſt, Hvad þeir ſieu Gude og ſijnu Tiltrwudu H. Embætte umſkylldugér.

Iura-

IURAMENTUM, qvod in timore Domini præstabunt, qvi muneri Ecclesiastico initiabuntur.

EGo N. N. juro & in conspectu Dei sanctè testor. Primó, me in corde ac conscientia certum esse, qvod ad sacrum hocce munus legitimè vocatus sim, ita ut nullis usus sim mediis divinitus prohibitis, sive occultè sive manifestè, huic officio ut præficerer.

Secundó promitto, me summâ diligentiâ allaboraturum, ut doctrina cælestis comprehensa scriptis Propheticis & Apostolicis, & libris Ecclesiarum Danicarum Symbolicis, auditoribus fideliter instilletur, Sacramenta ad normam â Christo præscriptam decenter ac devotè administrentur, Disciplina Ecclesiastica diligenter exerceatur, Catechetica doctrina urgeatur. Cerimoniæ in Ecclesia receptæ observentur, nec qvidqvam contra Constitutiones Ecclesiasticas admittatur.

Tertiò, seriò ac sanctè voveo, qvod non tantum velim fugere & detestari doctrinam verbo Divino adversam, sed etiam velim eandem pro virili impugnare, Sangvinem potius fusurus, qvam dogmata falsa ac fanatica approbaturus.

Qvartó legam studiosissimè monumenta sacra, ac recolam, eâ qvâ par est, diligentiâ articulos fidei, non passurus ullum effluere diem, qvo lectioni sacræ aliqvid temporis non impendatur, modó per valetudinem ac inevitabilia impedimenta liceat

Qvintò, vitam vivam, Ministro verbi Divini dignam, sedulò allaboraturus, ut laudabili pietatis, probitatis & sanctitatis exemplo, auditoribus præluceam, ne unqvam vel Gloriæ Dei, vel sacro huic & venerando ordini ex dedita opera sim futurus dedecori.

Sextò & ultimo recipio ac religiose promitto, qvod præter obedientiam seculari Magistratui debitam, velim meo Episcopo, ut & Præposito omne licitum obseqvium

præstare

præstare, imperata paratisimo animo facere, & cum Collegis ac in Christo fratribus ita conversari, ut nemo de me justè qveri possit, aut debeat.

Qvæ omnia ac singula tam verè promitto me servaturum, Qvam verè & ex animo cupio, ut me Deus suo sancto Evangelio juvet.

## Endum vier so fyrir Hiaalp og Adstod DRottins þeñañ Grallara.

Soli Deo Gloria.

---

## ERRATA TYPOGRAPHICA.

P. merkir Blad-Sijdu, A. merkir Fyrra Daalkiñ a Blad-Sijduñi, eñ B. þañ Sijdari; L. merkir Lijnu.

PAg. 51. b. Lin. 21. les Hiaalp. P. 68. a L. 20. l. Kviñu. P. 84. L. 11. l. Christ. P. 93. a L. 7. l. JEsu. P. 115. b. L. 6 fyrer: og l. O. P. 131. L. 5. giøndar les Giørdar. P. 168. L. 5. Bænar. P. 176 a. L. 10. þvi, les Hvi. P. 185. b. L. 17. l. Vorri. P. 195. L. 7. l. Von. P. 203. a. L. 9. l. Lausnarañ. P. 232. L. 13. l. Christe. P. 238. a. L. 21. l. Briooshed. P. 243. a. L. 24. Slisiñ. Pag. 275. a. L. 23. l. Hverki. P. 289. L. ult. b. A, Les ad. P. 294. b. L. 16. Les Ton.

Hvad añad smaaveigis kañ hafa yfirsiest vid Correction XVII. Editionis þessa Grallara, er Goodfws Lesari vinsamlega umbediñ ad lagfæra og lesa i Maalid, eirnig hvar summir Stafir, so sem miøg slitnir, ei siaanlega uppkoma.

* * * * * *
* * *